[Þess íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 11.]

# Sá fátæki Jóseph;

útlagt úr svensku af útgéfaranum.

---

Einn einfaldur fátækur madur, ad nafni Jóseph, hvörs handíéran þad var, ad vera í ferdalagi, og bera sendíngar um Lundúnar gøtur, hann géck einusinni um gøtur borgarinnar, og heyrdi ad verid var ad sýngja í einni kyrkju, hvar presturinn Calamy embættadi. Hann géck inn og bar eitt stórt knippi garns á baki sér. Mikill fjøldi af velklæddum tilheyrendum var þar samankominn, og presturinn predikadi út af þessum texta 1 Tím. 1, 15. "Þad er eitt stadfast ord, og í allann máta vidtektar verdugt, ad Jesú's Christur er í heiminn kominn, syndugа menn sáluhólpna ad gjøra, medal hvørra eg er hinn stærsti."

Út af þessum texta kéndi presturinn á hinn allra ljósasta og einfaldasta hátt, þad gamla postulliga evangelíum, sem innibundid væri í þessu fasta ordi; þad nefniliga: «1) ad ein eilíf sálu«hjálp sé afrekud, jafnvel þeim stærstu syndurum,

«einúngis og alleinasta fyrir Jesú Christi verð«skuldun, hans, sem er sannur Guð og allra hluta «skapari. 2) Að með þessum lærdómi hafi, eptir «postulans sögn 1 Cor. 1, 26. áunnist, ecki margir «hinna vitru eptir holdinu, ecki márgir hinna «mektugu og eðalbornu; heldur það sem heimsku«ligt og vésælt er fyrir heiminum, það hefur Guð «útvalið, svo hann gjörði bá vísu og mektugu til «skammar; og svo fr." Meðan nú að söfnuður«inn, sem mestpart var af meira háttar fólki, hlýddi með litilli athugasemi á þennann gamla lærdóm, heldur einúngis gaf gaum að nockrum fagurstíludum og velvöldum orðatiltækjum, sem féllu í bland af prestsins munni, þá stóð hinn fátæki Jóseph kyr með forundrun, starði á prestinn, og líkasem drack í sig, með stærstu gyrnd, hvört orð sem hann talaði. Á veiginum frá kyrkjunni heyrðu menn hann sífeldt vera með sjálfum sér að ítreka aptur og aptur þessi orð: "þetta hefur Jóseph aldrei fyrri heyrdt, að Jesús Christur, sá Guð sem alla hluti skapað hefur, sé í heiminn kominn að frelsa syndarana, þvílíka sem Jóseph er; og að þetta sé eitt sannarligt og stáðfast orð."

Ei lángu þar eptir féll Jóseph í eina þúnga landfarsótt, og varð dauðliga sjúkur. Miðt í því hann nú lá og píndist af verkjunum, var þetta hans sífelda tal: "Jóseph er sá stærsti af öllum syndurum, en Jesús Christur er kominn í heiminn til að frelsa syndarana, og þarfyrir elskar

Jóseph hann." Hans nágrannar, sem komu ad vitja hans, forundrudu sig þegar þeir heyrdu ad hann héldt alltaf á þessu einu og sama tali. Einn og annar frómur og velþeinkjandi madur, vildi leida þánka hans vídara út, og sagdi til hans: «minn kjæri Jóseph! hvad seigir þú um þitt eigid hjartalag? hvörja vidleitni hefur þú haft til ad fá því umbreitt? hvörja kostgjæfni hefur þú med betrun og trú lagt á þad, ad verda nÿ manneskja, sem lifi fyrir Guds augliti í heilagleika og rétt-læti?" Jóseph svaradi: «æ Jóseph kann eingann hlut annann ad seigja um sig sjálfann, nema einúngis þetta, ad hann er sá stærsti allra syndara; en med því þad er eitt stadfast ord, ad Jesús Christur, sem skapad hefur alla hluti, er í heiminn kominn til ad frelsa syndarana og gjöra þá sáluhólpna, hvarfyrir skyldi þá ei Jóseph ogsvo verda sáluhólpinn?" Um sídir komst einhvör ad, hvar hann heyrdt hafdi lærdóm þennann, sem svo-dumbreitanliga, honum til stærstu gledi, hafdi inntekid hans þánka. Sá sami madur fór þá strax, og bad prestinn Calamy, ad vitja þessa fá-tæka Jósephs. Presturinn kom; en Jóseph var mikid veikur, og hafdi um þrjó ekki talad eitt ord; og þó honum væri sagt, ad presturinn væri kominn ad vitja hans, gaf hann því ecki gaum. En nær presturinn tók ad tala til hans, hafdi hann valla heyrdt hljódinn af hans meiníngarfullu rødd, fyr enn hann í augnabliki settist upp í sæng-

inni, tók í hönd prestsins, og hrópaði svo hátt sem hann gat, með sinni veiku og hásu röddu, og sagði: «æ! kjæri herra! þér erud sá sami herrans Jesú vinur, af hvörs muni eg heyrdi svo prýðiliga talað um Jesúm, hvörn eg nú elska, fyrir það sem þér um hann töluðuð. Jóseph er sá stærsti syndari af öllum, en það er þá aptur visssuliga satt, að Jesús Christur, sem er Guð og alla hluti skapað hefur, er kominn til að gjöra syndarana sáluhólpna, og hvörsvegna þá ecki Jóseph með? æ bidjið, bidjið þó Jesum fyrir mér, að hann ogsvo vilji gjöra mig sáluhólpinn. Seigið hönum, að Jóseph trúi að hann elski hann, fyrir það að hann er kominn í heiminn til að giöra þvílíka syndara sáluhólpna, sem Jóseph er." Prestrinn badst þá fyrir, og þegar hann var búinn, þackaði Jóseph hönum mikið inniliga þar fyrir. Þar eptir stack Jóseph hendinni undir hægindið, sem hann hafði undir höfði sér, og tók þar einn gamlann knýtilsklauta, í hvörjum vórn 5 gvineur, það er uppá 25 ríkisdali, umvafðar, og síðan þrickti hann peníngunum í prestsins hönd, í hvörja hann hafði alltaf með sinni hendi haldið, og sagði til hans: "Jóseph hefur á sínum dármenslu dögum safnað þessu til tæripeníngs í sínum aldurdómi; en af því Jóseph á nú ecki að verda sérliga gamall, þá takið við þessu, og skiptið því út meðal fátækra Jesú vina. Seigið þeim undir eins, að Jóseph gèfi þeim það, fyrir hans sakir,

sem kom í heiminn, til ad gjøra syndarana sálu-hólpna, medal hvørra Jóseph er hinn stærsti." En midt í því hann enn nú taladi, hneigdi hann sitt høfud nidur; og søkum þess hann, med sínu mikla tali, hafdi frekliga reynt á sína litlu krapta, þá andadist hann strax.

Prestinum Calamy gékk svo þadan heim, mikid hrærdur og med tárin í augunum yfir þessum frels-ada og sáluhólpna Joseph. Þad var venja hans, med stórri tilfinníngu, optliga ad seigja frá þessum tilburdi, sem einum þeim eptirtektaverdasta, er hann reyndt hafdi um sína lífstíd.

Þessi einstaka en þó lærdómsríka frásaga géfur oss tækifæri:

1) Ad dádst ad Guds nádar krapti. Gjør-vallur søfnudurinn, sem í kyrkjunni var, svo ríkir sem fátækir vóru syndarar í þess heilaga Guds augsýn, og høfdu jafna þørf frelsis þess, sem, med ordi evangelii, bodad var. En midt á medal þeirra mørgu, sem heyrdu á prestsins ord athugalaust, þreyngdu þaug sér med anda og krapti inn í Jó-sephs hjarta, og festa hans athugasemi á evangelii ómetanliga dýrmæti. Gud vill ad allar manneskjur skuli hólpnar verda og til sannleikans viðurkénn-íngar komast; því fyrir øllum manneskjum, án alls mismunar, standa nádarinnar dyr opnar. Eing-inn er svo vesæll, svo fátækur, svo sásrødur, svo forsmádur, ad hann ecki á sínu hjarta reyndt géti evangelii blessunar krapt, ef hann yfirvegar þad med

athugasemi. Sá fátæki Jóseph vard inniliga hrærdur af því, og gékk sídan fullur af huggun og samvitskufridi heim til sín aptur. Hann fann hjá sér eina þá umbreitíngu, sem gjordi hann lucksligann, og alla þá uppbyggíng og huggun, sem hann fékk, átti hann ad þacka því guddómliga ordi, sem hann heyrdt hafdi.

2) Sjáum vér af søgu þessari, hvørsu evangelíum uppiendrar í sálunni kjærleikann til Guds og hans fólks. Jóseph medtók ordid, ei svo sem manneskju ord, heldur, eins og þad sannarliga er, sem Guds ord, og þad sýndi líka kroptuga verkun í hønum, vegna þess hann trúdi. Hann reyndi í sjálfum sér sannleika þessara postulans orda: «vér elskum hann fyrir þad hann elskadi oss ad fyrrabragdi." Menn meiga seigja, hvad þeir vilja, um þann kjærleika, sem elskar Gud, fyrir þad sem hann í sjálfum sér er; en hér var þad Jesú kjærleiki, hvørn hann auglýsti med því ad frelsa syndugar manneskjur, er allrafyrst dróg Jósephs hjarta til sín, og uppvakti hjá hønum vidkvæmustu kjærleiks tilfinníngar til Guds og frelsarans. Og aldeilis á sama hátt geingur þad til fyrir hvørjum einasta syndara, sem af nádinni frelsadur verdur. Ein tilfinníng Christs kjærleika, úthellt í hans hjarta fyrir heilagann anda, framleidir kjærleikann óuggjanliga; og þessi kjærleiki audsýnir sig med óafmarkadri hlýdni vid Guds bodord. Jóseph gat nú ecki meiri merki géfid til síns kjærleika til Guds,

enn hann gaf; en hann lét hann í ljósi, með einu sönnu kjærleiksverki við hans fólk, og lét það njóta þess, að það elskaði Jesúm. Hann gaf út til fátækra Jesú vina, allt hvað hann átti í þessari veröldu.

3) Sjest af áðursögðu dæmi um þann fátæka Jóseph, að evangelíum hefur fullkominn krapt til að gjöra sálu manneskjunnar örugga og hughrausta, þó hún sjái dauðann fyrir dyrum. Jóseph gjörði sér ecki, þegar dauðinn nálægðist, eins og margir aðrir, eina falska huggun af þeim þánka, að hann ecki væri verri enn aðrir, og að Guð væri ofnáðugur til þess að hann skyldi útskúfa sér. Ney! Christi friðþægíng alleina, og hún réttiliga meðtekinn, var sá einasti grundvöllur hans vonar og hughreysti. Réttlættur fyrir trúna, hafði hann frið við Guð, fyrir drottinn Jesúm Christum, og var svo glaður í voninni um að sá að njóta eilífrar sælu.

O! Dauðinn er það efni, sem allra mest áríður um að þeinkja, því manneskjunni er áqvarðað einnsinni að deya, og þar eptir kémur dómurinn. Hugsið hér um allir þér sem Guði gleymið, og símindið yður að yðar dauðadagur sé ecki lángt í burtu. Látið yður til hugar koma, að eptir einn einasta andardrátt, kann líf yðar vera úti og endað. Og hvernig mun þá yðar kjörum varið verða? Látið þarfyrir þessi ráð, sem eg vil nú yður leggja, vera yður bæði mikilvæg og ógleymanlig! Ver

hugid af alvøru þann veg sem þér gángid á, hvørt hann er sá rétti, edur ei? Takid, med léfandi trú, ydar tilflugt til þeirrar nádar, sem Gud, í evangelío, frambýdur! vidurkénnid ad þér séud fortapadir syndarar! Því þad er enn nú, og verdur æfinliga, eitt óbifanligt stadfast ord, ad Jesús Christur, allra hluta skapari, er kominn í heiminn, ad gjöra synduga menn, sáluhólpna, og þad eins vel hina stærstu og verstu syndara, sem adra. Já þar er eckert annad nafn undir himninum mønnunum géfid, enn þad blessada Jesú nafn, í hvørju þeim byrji hólpnum ad verda. Sé Gudi lof og dýrd fyrir Jesúm Christum! Amen!

---

I þessu bindi eru fylgiandi prentvillur leidréttar:

| | | | |
|---|---|---|---|
| No. 8. | bls. 2. | l. 19. | klettana les klettanna. |
| | - 3. | - 13. | vra l. vera. |
| | - 4. | - 3. | sái l. sái. |
| | - 6. | - 7. | útsnára l. útsnara. |
| | - 14. | - 13. | eilífrar l. eilífrar. |
| | - » | - 27. | særum l. sær um. |
| No. 9. | - 25. | - 2. | englands l. Englands. |

---

Kaupmannahøfn 1818.
Prentad hjá Þorst. Einarss. Rangel.